WIKIPEDIA

# Mannkynssaga

**Mannkynssaga** er saga mannkyns sem hefst á fornsteinöld, en jarðsaga er saga jarðarinnar, þar á meðal saga lífs áður en maðurinn kom til. Sá tími sem engar ritheimildir eru til um er kallaður forsögulegur tími en með skrift og rituðum heimildum hefst sögulegur tími. Forsögulegur tími hefst á fornsteinöld en upphaf nýsteinaldar markast af landbúnaðarbyltingunni (milli 8000 og 5000 f.o.t.) í frjósama hálfmánanum. Á bronsöld þróuðust stór menningarríki sem eru kölluð vöggur siðmenningar: Mesópótamía, Egyptaland hið forna og Indusdalsmenningin.


Lógaritmískur skali sem sýnir mannfjöldaþróun á jörðinni

Hefðbundin sagnaritun skiptir sögu ólíkra heimshluta í ólík tímabil. Til dæmis er algengt að notast við konungsættir til að afmarka söguleg tímabil eins og gert er í sögu Kína. Í mörgum heimshlutum eru til einhvers konar „klassísk“ tímabil, miðtímabil og nútími, en þessi tímabil ná gjarnan yfir ólík tímaskeið. Í sögu Indlands nær til dæmis klassíska tímabilið frá 230 f.o.t. til 1200 e.o.t., „miðtímabil“ frá 1200 til um 1600 og nýöld frá 1600 til okkar daga. Í sögu Ameríku nær „klassíska“ tímabilið frá 200 til 900 þegar majar mynduðu stór menningarríki, en tímabilið frá 900 til upphafs landvinningatímans 1519 er kallað „póstklassíska“ tímabilið. Í samtímanum tvinnast saga ólíkra heimshluta saman vegna hnattvæðingarinnar.

Mannkynssagan nær yfir um 2,4 milljón ár, frá því ættkvíslin *Homo* kom fyrst fram á sjónarsviðið til okkar daga. Fyrir um 200.000 árum þróuðust nútímamenn og allar aðrar tegundir af ættkvíslinni dóu smám saman út. Landbúnaðarbyltingin átti sér stað fyrir um 10.000 árum og um 5.000 árum síðar tóku menn að notast við ritmál svo sögulegur tími er í raun agnarlítill hluti af mannkynssögunni mældur í árum.

 *Þessi sögugrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Mannkynssaga&veaction=edit).*